Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

4. tölublað — þriðjudagur 24. janúar 1978 — 7. árgangur — Verð kr. 80.-



# Dagsbrún: Jákvæður árangur af mótframboðinu

Þegar við metum árangurinn af starfinu að mótframboðinu í Dagsbrún, verðum við að skoða málið með hvoru tveggja heildaryfirsýn og rannsókn einstakra atvika.

Með því að skoða málið þannig kemur í ljós að það felur í sér bæði jákvæðar og neikvæðar hliðar. Og út frá þeim metum við svo hvort gengið hafi verið til góðs, jafnvel þó framboðið hafi ekki náð fram að ganga.

Hér skulum við reifa ýmis mál sem upp komu meðan á framboðsbaráttunni stóð.

Fyrir það fyrsta þá var lögð á það megin áhersla að standa sem lýðræðislegast að framboðinu og láta það stjórnmálalega séð vera sem víðtækast meðal verkalýðsins. Um það hversu vel það tókst til, má auðvitað deila og benda á möguleika til að gera það enn víðtækara og sterkara, en þær ábendingar hefðu mátt koma fyrr því nú verða þær að bíða heilt ár í framkvæmd.

Með því hvernig að var staðið hafa náðst mjög sterk tengsl milli manna sem vilja gjörbreytingu á starfsháttum verkamannafélagsins. Forsendur þessara manna eru að sjálfsögðu mismunandi, stjórnmálalegar eða persónuleg reynsla og hvort tveggja, en þess vegna var saminn grundvöllur sem allir gátu fellt sig við.

Þó ekki næðist að bjóða fram þá sannaðist hversu víðtæk óánægja ríkir með Dagsbrúnarstjórnina, allsherjarumræða skapaðist, fjöldi manns sem ekki voru gullgildir félagar en borguðu þó full gjöld gengu í félagið formlega, andstaðan sem áður var sundruð er nú sameinuð, mikil reynsla hefur náðst og þekking á málefnum félagsins enda kom í ljós að stjórnin var dauðhrædd við framboðið.

Eðvarð Sigurðsson formaður Dagsbrúnar og Guðmundur J. Guðmundsson varaformaður eru báðir í miðstjórn Alþýðubandalagsins og það ætlar sér að fá atkvæði frá verkafólki í Alþingis-og borgarstjórnarkosningum í vor. Ef þetta vígi Alþýðubandalagsins í stjórn Verkamannafélagsins Dagsbrúnar félli eða biði afhroð í kosningum innan félagsins þannig að berlega sæist hversu lítt vinsælir þeir raunverulega eru, er hætt við að X-G atkvæðum fækkaði mjög í vor. Eins væri það ef ein stéttasamvinnu og samtryggingarkerfis verkalýðsfélagastjórnin félli fyrir sameinaðan kraft verkafólks, að hætt er við að fleirri féllu á eftir.

Dagsbrún er fótfesta Eðvarðs og Guðmundar J. upp í gegn um Alþýðubandalagið, þingið, nefndir og stjórnir. Því er ekki nema eðlilegt frá þeirra

Framh. á bls. 2



Myndin er af þremur aðstandendum mótframboðsins í Dagsbrún og er liðhlaupinn í miðið.

# Stórgróði af fiskiðnaðinum

Hversu oft höfum við ekki heyrt það frá frystihúseigend um að nú sé allt í kaldakoli og sölutregða hafi valdið milljóna tapi. Á síðasta ári, sérstaklega nú í vetur, urðu kveinstafirnir háværir og lokun frystihúsanna blasti við, því ekki þótti ástæða til að halda taprekstrinum lengur áfram. Nú nýlega kemur það aftur á móti fram að rekstur hraðfrystiiðnaðarins hefur gengið harla vel. Í fréttum um rekstur tveggja íslenskra fyrirtækja í Bandaríkjunum kemur fram að gróði þeirra hefur margfaldast á síðustu þremur árum. Þetta eru dótturfyrirtæki Sölumiðstöðvar hraðfrystihúsanna og SÍS, sem á síðustu þremur árum hafa meira en tvöfaldað heildarsöluverðmæti sitt. Þetta eru engir smáaurar, því heildarsöluverðmæti þeirra á síðastliðnu ári nam 51 milljarða króna og sé miðað við heildartekjur ríkissjóðs sama ár sem var um 90 milljarðir, kemur í ljós að þetta eru rúmur helmingur allra tekna ríkissjóðs. Hækkun sölutekna hjá þessum risafyrirtækjum hefur aukist um 26 milljarða króna síðastliðin þrjú ár, en slík hækkun hefur þó hvergi komið fram. Á sama tíma og gróðaaukningin hefur tvöfaldast hefur hagur frystihúsanna stöðugt versnað ef við tökum mark á barlómi frystihúseigenda.

Árið 1974 seldi Iceland Product (SÍS) fyrir 36,7 milljón dollara en árið 1977 fyrir 61,7 milljón dollara. Árið 1974 seldi Coldwater (SH) fyrir 77-78 milljón dollara en árið 1977 fyrir 175 milljón dollara. Þessi stóraukna sala hefur þó lítið gert vart við sig í launaumslögum verkafólksins sem skapað hefur öll verðmætin sem SÍS og SH eru að ráðskast með erlendis. Hér er okkur sagt að hvert mannsbarn skuldi 500.000 kr. og því ættum við að leggja niður allar kröfur og auka við okkur vinnuálagið. En auðhringarnir fá að braska með verðmætasköpun íslenskrar alþýðu að vild sinni og það brask miðar eingöngu að síauknum gróða. Það er skýlaus krafa þeirra sem verðmætin hafa skapað að auðhringarnir geri fulla grein fyrir fjármagnsútflutningi sínum og hvernig hann kemur heim og saman við lokun frystihúsanna hérlendis í því-sambandi má minna á

Framh. á baksíðu

# Viðræður egypta og ísraela

Vestrænir (og þ.m. íslenskir) fjölmiðlar hafa frá upphafi viðræðna egypta og ísraela gert mikið úr "friðar vilja" ríkjanna. Sérstaklega er lögð áhersla á að nú fyrst komi eitt arabaríkjanna til móts við einlægar óskir ísraelskra ráðamanna (síonista) um að saminn verði ævarandi friður í ríkjunum fyrir botni Miðjarðarhafs.

PLO (Frelsissamtök Palestínumanna) hafa frá upphafi þessara viðræðna fordæmt Sadat fyrir að svíkja einingu arabaríkjanna og jafnframt bent á þá staðreynd að friður verður ekki saminn án fullrar aðildar og þátttöku palestínumanna. Grundvallarskilyrði fyrir að raunverulegur friðarviðræður geti hafist er viðurkenning á óskoruðum sjálfsákvörðunar rétti palestínsku þjóðarinnar og að viðurkenndur verði réttur palestínumanna til að snúa aftur til heimkynna sinna. PLO hafa lýst yfir þeirri stefnu sinni að stofna verði sameiginlegt ríki gyðinga og araba í Palestínu, þar sem viðurkenndur verði jafn réttur allra manna án tillitis til litarháttar, trúarbragða osfrv. Þessar tillögur eru að sjálfsögðu óaðgengilegar fyrir síonista, sem eru fulltrúar heimsvaldastefnu, útþenslustefnu og kynþáttakúgunnar. En í andstöðu við síonistana er mikill meirihluti gyðinga, sem í dag býr við kúgun og óréttlæti innan Ísraelsríkis. Þetta er fólk úr verkalýðsstétt sem hefur látið glepjast af áróðri síonistanna um sælurikið og farið til Ísraels.



Hér er einnig um að ræða svarta og arabíska gyðinga sem síonistarnir líta niður á og hafa svipt öllum mannréttindum. Þetta fólk hefur nú hafið baráttu gegn síonismanum innan Ísraelsríkis sjálfs í tengslum við palestínumenn á herteknu svæðunum og PLO.

Það er við þessa sameiginlegu baráttu PLO og hins undirokaða meirihluta palestínumanna og gyðinga innan Ísraelsríkis sem raunhæfar friðarvonir er hægt að binda við. En hvað með friðarhjal Sadats og Begin?

Sá "friður" sem Begin sækist eftir er friður fyrir síonismann til að færa óhindrað út yfirgangs- og kúgunarstefnu sína innan hinna herteknu landssvæða og beita fólkið á þessum sömu svæðum miskunnarlaust þvingunum og pyntingum til að berja niður baráttuvilja þess fyrir sjálfstæði þjóðar sinnar. Það sem Begin ætlast til af Sadat, er aðstoð við að brjóta á bak aftur hina skipulögðu frelsishreyfingu palestínumanna í arabalöndunum. Fyrir þess þjónustu eiga egyptar að endurheimta hluta Sinaieyðimerkurinnar. Begin og félagar vonast einnig eftir að draga megi fleiri arabaríki inn í þennan svikavef (t.d. Jórdaníu). Sadat hefur sjálfsagt í upphafi viðræðnanna talið að svik hans yrðu meira metin af síonistunum en raun ber vitni. Nýjustu aðgerðir hans að kalla heim til Kaíró utanríkisráðherra sinn bera þess ótvíræð vitni að "vonir" hans eru að bresta. Begin og síonistarnir munu ekki láta af heimsvaldasinnuðum áformum sínum með samningum. Þetta er staðreynd sem Sadat þarf að lærast ef hann ætlar að ná sér upp úr þeim svikavef sem hann hefur nú vafið sig í. Eina von egypsku þjóðarinnar er að hafna öllum svikaáformum Sadats, hætta viðræðunum við Ísrael og taka aftur upp samstöðu með arabaríkjunum og PLO.

LEIÐARI

# Verkamenn haldið starfinu áfram

Eins og fram hefur komið í Stéttabaráttunni reyndi hópur verkamanna í Dagsbrún mótframboð gegn núverandi stjórn félagsins í byrjun janúar. Þetta framtak verkamanna, þó ekki hafi náð fram að ganga, er mjög mikilvægt skref í baráttu þeirra gegn ólýðræðislegum og sviksamlegum aðgerðum stjórnarinnar. Þó svo hafi farið að stjórninni tókst að ógilda mótframboðið sökum formgalla er enginn vafi á að mikill hugur er í aðstandendum þess að halda starfinu áfram og mæta margefldir og betur undirbúnir til leiks við næstu stjórnarkosningar í félaginu. Það er heldur enginn vafi á að þessi tilraun í ár var undirbúin með allt of skömmum fyrirvara og hann því engan veginn nægilegur. En þrátt fyrir þetta náði hópurinn verulegum árangri sem felst í því að andstaðan innan félagsins er nú miklu betur skipulögð en áður.

Þær hugmyndir hafa komið fram að aðstandendur mótframboðsins ættu að kæra úrskurð kjörstjórnar til félagsdóms. Þetta hefur meðal annars komið fram í viðtali við einn aðstandenda framboðsins (Hermann Ólason) í dagblaðinu nýlega, Þar ræðst hann að félögum sínum fyrir að hafa útilokað þessa leið með því að undirrita bréf það sem var skilyrði kjörnefndar fyrir þeim frest sem veittur var til að skila "löglegum" lista. Þessi hugmynd er röng og jafnvel hættulegt fordæmi. Því næði hún fram að ganga gefur hún dómsvaldinu frekari möguleika til afskipta innan verkalýðsfélaga og annarra frjálsra félagasamtaka.

Allar hugmyndir sem miða að skerðingu á því frelsi sem félagasamtök hafa gagnvart ríkisvaldinu og dómskerfinu. Verkafólk verður þvert á móti að setja traust sitt á eigin samtök gegn fjandsamlegu ríkiskerfi auðstéttarinnar og halda baráttunni áfram fyrir auknum áhrifum alþýðusamtaka á borð við verkalýðsfélögin. Embættiskerfi auðstéttarinnar mun aldrei geta leyst ein eða nein vandamál sem orðið gæti verkalýðshreyfingunni í hag. Þess vegna setjum við traust okkar á alþýðuhreyfinguna en ekki dómskerfi steinrunninar auðstéttar. Þetta eru þau grundvallarsjónarmið sem ganga verður út frá. Hinn framfarasinnaði hópur sem nú er að hefja baráttuna gegn uppkeyptri verkalýðsforystu gerir það meðal annars út frá þeim sjónarmiðum að hún hefur hafnað skipulagningu verkalýðsins en gengið inn í embættiskerfi ríkisvaldsins. Þar á barátta og hugmyndir verkalýðsins ekki heima. Verkefnið er því að endurreisa verkalýðsfélögin sem baráttutæki og hafna leið uppkeyptu verkalýðsforystunnar. Látum engan rugla okkur af réttri leið og ef einhver vill fara með forystunni þá hann um það, en við eigum þá ekki samleið alla veganna ekki meðan félagi okkar hefur ekki áttað sig á villu sinni.


Lausasala kr 80.-

| | | |
|---|---|---|
| Heilt ár eða 48 tölublöð | Baráttuáskrift | kr. 5.500.- |
| " " " " " | Venjuleg áskrift | kr. 3.500.- |
| Hálft ár eða 24 tölublöð | " " | kr. 2.000.- |
| Erlendis, sent vikulega, 48 tbl. | | kr. 7.000.- |
| Erlendis sent hálfsmánaðarlega (2 blöð í einu) | | kr. 5.500.- |
| Til öryrkja og aldraðra, heilt ár kr. 500.- | | |



## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

● Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar. sími: 27810 og pósthólf 1357, 121R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð. Lindargötu 15. Opið mánud.-föstud 15-18,30

● Akureyri: Jón Atli Játvarðsson, Hafnarstræti23.

● Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsd. Reykjarvíkurvegi 24.

● Hornafjörður: Skúli Waldorff. Silfurbraut 2.

● Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir. Þiljuvöllum38.

● Snæfellsnes: Sigfús Almarsson. Hellisbraut 10 Hellissandi, og Gísli Hjaltason, pósthólf 63, Stykkishólmi.

● Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallargötu 40c, Keflavík.

● Danmörk: Magnús Þorgrímsson. Börglum Kollegiet v.444 Börglumvej 2, 8240 Risskov.

● Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kämnärsvägen 11 N : 220. 22246 LUND


# Dagsbrún: Jákvæður árangur af mótframboðinu



Framh. af forsíðu

sjónarhól að halda dauðahaldi í Dagsbrún og berjast á móti því með oddi og egg að hugur verkamanna til stjórnar sem þjónar auðvaldinu verði kunnur í kosningum. Sem kunnugt er beitti stjórnin þeirri aðferð að strika út menn sem ekki voru í fullkomnu samræmi við ófullkomna félagaskrá verkamannafélagsins.

Svo langt gekk stjórnin í þessum útstrikunum sínum að menn sem t.d. skulduðu 3000 kr. frá '75 eða '76 voru strikaðir út og nú hefur komið í ljós að a.m.k. 2 af þeim sem strikaðir voru út af meðmælendalistanum hafa félagsskírteini og eru skuldlausir. Það munaði þremur nöfnum að meðmælendalistinn væri löglegur að dómi kjörnefndar, á honum voru 72 löglegir en þurfa að vera 75. Allir þeir menn sem skrifuðu nöfn sín á meðmælendalistann þ.e. rúmlega 100 manns töldu sig vera fullgilda meðlimi í félaginu, enda lögðu þeir sem undirskriftunum söfnuðu ríkt á um það að einungis fullgildir aðalfélagar skrifuðu nöfn sín. Nú kemur það algerlega flatt upp á menn sem borga sín fullu félagsgjöld að þeir eru réttindalausir með öllu. Gróusögur hafa heyrst frá illum tungum að þeir sem að B-listanum standa hafi reynt að fá alla til að skrifa og jafnvel þó þeir væru ekki í félaginu.

Slík ummæli falla um sjálf sig því aðstandendum B-listans væru slík vinnubrögð verst því þau hlytu auðvitað að koma þeim sjálfum í koll.

Ein er sú reynsla sem fengist hefur og er dýrmæt en það er að velja verður vel, mjög vel, þá menn sem taka eiga við ábyrgðarstöðum í verkalýðsfélögum. Í ljós hefur komið að B-listamennirnir uppfylltu ekki að fullu það skilyrði að hafa eingöngu trausta menn á stjórnarframboðslista sínum. Þetta var ómögulegt að sjá fyrir en verður þó að vera víti til varnaðar.

B-listamennirnir hafa staðið eins lýðræðislega að málum og þeim var unnt. Ef um vandamál var að ræða voru þau rædd þegar í stað á fundum, á vinnustöðunum og í síma. Þannig var reynt að hafa alla með í ráðum þegar ákvarðanir voru teknar. En einn maður sem stillt hafði verið upp sem meðstjórnanda Hermann Ólason hefur nú ákveðið sér aðrar leiðir. Í stað þess að ræða málin við félaga sína rýkur hann upp á Dagblað með stóryrtar yfirlýsingar og ósannindi. Þar lýsir hann vanþóknun sinni á framferði meðframbjóðenda sinna "varðandi samskipti þeirra við kjörstjórn er þeir létu ginnast til að undirrita yfirlýsingu um að þeir mundu sætta sig við úrskurð kjörstjórnar um lögmæti framboðs lista okkar, hver svo sem niðurstaðan yrði".

Yfirlýsingin sem Hermann talar um er ekki til en til er undirritað plagg þar sem B-listamenn taka það á herðar sínar að vera búnir að stilla upp fullkomlega löglegum lista fyrir kl. 5 á mánudag 16.1. 1978. Birtist það plagg hér orðrétt og af því má sjá að Hermann skilur það á einhvern hátt öðru vísi en allir aðrir. Um það að ekki hafi verið höfð nein samráð, eins og Hermann segir, þá veit hann það sjálfur manna best að hann fer með staðlausa stafi. Í lok þessa dæmalausa viðtals hans við Dagblaðið 21.1 lýsir hann því yfir að hann vilji fremur núverandi stjórn en slíka "stjórnvitringa" og "kumpána" í forystu verkalýðsfélaganna og á þar við samstarfsmenn sína að B-listanum. Manni sem snýst svo snögglega hugur er engan veginn hægt að treysta til forystu í verkalýðsfélagi, svo mikið er víst. Hver veit nema hann snérist jafn snögglega á sveif með atvinnurekendum.

En hvað um það, ef við skoðum hið jákvæða og hið neikvæða þá kemur út að árangur þessa starfs að framboðinu hefur orðið mjög mikill og mun líflegri bragur er yfir verkamannafélaginu en áður.

Niðurstaðan er því sú að af mistökunum lærum við og látum þau ekki henda oftar, þannig stöndum við mun betur að vígi en áður. Óvininn þekkjum við mun betur og vitum hvernig hann bregst við.

Okkar eigin styrk þekkjum við mun betur og einingin hefur styrkst. Reynslan gerir okkur hæfari að mæta ófyrirsjáanlegum erfiðleikum í framtíðinni.

### DAGSBRÚNARSÁTTMÁLINN

Kl. 18 laugardaginn 14.1. komu þeir Sigurður Jón Ólafsson, Benedikt S. Kristjánsson og Ólafur Vilbertsson á fund kjörstjórnar, og var þeim kynnt niðurstaða hennar, sem skráð er hér að framan.

Af því leiðir, að kjörstjórnin tekur ekki gildan umræddan framboðslista eins og hann hefur verið borinn fram, en telur rétt að gefa aðstandendum listans kost á að færa hann til samræmis við gildandi lög félagsins og venjur, sbr. áðurgreinda niðurstöðu, enda skili þeir listanum í skrifstofu félagsins þannig að vottfast sé, eigi síðar en kl. 17.oo mánudaginn 16. janúar n.k. Áskilið er, að listinn sé algerlega í lögmætu formi, bæði hvað snertir frambjóðendur og meðmælendur, þar eð frekari frestur verður ekki veittur.

Undirritaðir aðstandendur listans samþykkja með nafnritun sinni framangreindar niðurstöður og gerðir kjörstjórnar og viðurkenna móttöku á listanum í ofangreindu skyni.



ÚR BARÁTTUNNI

### ATVINNULEYSISTRYGGINGAR KVENNA.

Samkvæmt reglum atvinnuleysistryggingarsjóða getur kona ekki fengið bætur þótt hún missi vinnu sína, ef "fyrirvinna" heimilisins hefur haft meira en tvöfaldan næstlægsta taxta Dagsbrúnar í tekjur á liðnu ári.

Þannig fengu nokkrar konur sem sagt var upp á prjónastofu Álafoss í nóvember, ekki atvinnuleysisbætur, því menn þeirra voru svo tekjuháir! Þeir höfðu haft yfir 1.8 millj í tekjur á síðasta ári, en það samsvarar 150.000 kr á mán. Getur hver og einn séð að erfitt er að framfleyta fjölskyldu af þeim launum.

Hér er greinilega sama gamla sagan á ferðinni, þegar vantar vinnuafl er konan velkomin til starfa, en þegar þrengist um á vinnumarkaðinum skulu konurnar hverfa launalaust inn á heimilin. Það ætti því að vera krafa kvenna og verkalýðsstéttarinnar í heild, að sérhver vinnandi maður fái atvinnuleysisbætur ef hann missir vinnu sína.

Er það ekki líka dæmi um hve skammt dagvinnutekjur hrökkva til framfæris, að ekki þykir stætt á öðru en miða við tvöfaldann taxta.

Nú er svo komið, að til að geta séð fjölskyldu sinni sómasamlegan farborða þurfa bæði hjónin í verkamannafjölskyldu að vinna úti og jafnframt að vinna yfirvinnu. Ef annað þeirra missir atvinnuna getur það orðið afdrifaríkt fyrir afkomu fjölskyldunnar. Sá samdráttur sem nú er að aukast á vinnumarkaðinum, ætti því að herða enn á kröfunni um lífvænleg laun fyrir dagvinnu.

# Hin tíu megintengsl

## *eftir Mao Tse-tung*

"Hin tíu megin tengsl" flutti félagi Maó Tse-tung upphaflega sem ræðu á fundi pólitískrar framkvæmdanefndar miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína 25. apríl 1956.

Með því að birta ræðuna sem greinaflokk vill Stéttabaráttan gefa lesendum sínum tækifæri til að kynnast nánar þessum mikla leiðtoga kínversku þjóðarinnar

Hér dregur Maó Tse-tung saman reynslu Kínverja sjálfra sem og einnig reynsluna af Sovétríkjunum í sósíalískri byltingu og sósíalískri uppbyggingu. Á meistaralegan hátt dregur hann þetta saman í "tíu megin tengsl" og setur fram hugmyndir sem eru undirstaðan í stefnu sem lögð er til grundvallar í að byggja sósíalismann með stórstígari, hraðari, betri og meiri efnahagslegum árangri, stefna sem fellur að aðstæðum í Kína.

Stéttabaráttan er einnig sannfærð um að lesendur blaðsins geti marga lærdóma dregið af lestri þessa greinaflokks til brúks í eigin starfi að íslensku byltingunni.



Mao Tse-tung

X. Tengslin milli Kína og annara landa.

Við höfum sett fram vígorðið að læra af öðrum löndum. Ég held við höfum rétt fyrir okkur. Nú eru leiðtogar sumra landa varkárir og jafnvel hræddir við að setja fram þetta vígorð. Það þarf dálítið hugrekki til þess. Með öðrum orðum það þarf að losa sig við leikaraskapinn.

Það verður að viðurkenna að sérhver þjóð hefur sínar sterku hliðar. Hvernig mætti hún komast af ef svo væri ekki? Hvernig gæti hún þróast? Hins vegar hefur sérhver þjóð sínar veiku hliðar. Sumir halda að sósíalisminn sé algjörlega fullkominn, án minnsta flekks. Hvernig má það standast? Það verður að viðurkenna að það eru alltaf fyrir hendi, tvær hliðar, veik hlið og sterk. Ritarar flokksdeilda okkar, yfirmenn skora og liðssveita í hernum okkar hafa allir lært að hripa niður báðar hliðar í vasabækurnar sínar, jafnt veikar hliðar sem sterkar þegar þeir draga saman reynsluna af starfi sínu. Þeir vita allir að til eru tvær hliðar á hverjum hlut. Hvers vegna skyldum við minnast aðeins á eina?

Það verða alltaf til tvær hliðar, jafnvel eftir tíuþúsund ár. Sérhver öld, hvort sem er gengin eða ókomin hefur sínar tvær hliðar, og sérhver einstaklingur hefur tvær hliðar. Í stuttu máli, það eru tvær hliðar en ekki ein. Að segja að aðeins ein hlið sé fyrir hendi, jafngildir því að vita af annari en þekkja ekki hina.

Stefna okkar er að læra af sterkum hliðum allra þjóða, og allra landa, að læra allt sem er raunverulega gott á sviði stjórnmála, efnahags, vísinda og tækni og í bókmenntum og listum. En við verðum að vera skilgreinandi og gagnrýnin þegar við lærum og ekki læra blint. Og við megum ekki apa allt eftir hugsunarlaust og flytja það hingað á vélrænan hátt. Auðvitað verðum við að forðast að taka upp veikar hliðar þeirra og galla. Við ættum að hafa sömu afstöðu þegar við lærum af reynslu Sovétríkjanna og annarra sósíalískra landa. Sumir gættu þessa ekki áður fyrr og tóku einnig upp veikleika þeirra. Þegar þeir voru að springa af monti yfir því sem þeir höfðu tekið upp, var þegar verið að hafna því í viðkomandi löndum.

Afleiðingin varð sú, að þeir urðu að fara kollhnís eins og apinn Sun Wu-kung. Til dæmis var til fólk sem ásakaði okkur fyrir mistök í grunvallaratriðum, þegar við komum á fót menningarráðherraembætti og kvikmyndastofnun í stað kvikmyndaráðherraembættis og menningar-stofnun eins og var í Sovétríkjunum. Þá grunaði ekki að stuttu síðar myndu Sovétríkin breyta til og setja upp menningarráðherraembætti eins og við höfum gert. Sumir ómaka sig aldrei við skilgreiningar, þeir fylgja einfaldlega "vindáttinni". Þegar "norðanvindurinn" blæs núna, fylgja þeir skóla "norðanvindarins".



Á morgun þegar hann er úr vestri, skipta þeir yfir í skóla "vestanvindsins". Síðar þegar hann er aftur úr norðri, skipta þeir aftur yfir í skóla "norðanvindsins". Þeir hafa enga sjálfstæða afstöðu og sveiflast oft frá einum öfganum til annars.

Þeir sem hófu Stalín til skýjanna í Sovétríkjunum hafa nú í einni svipan dæmt hann til vistar í hreinsunareldinum. Hér í Kína fylgja sumir þessu fordæmi. Það er skoðun miðstjórnarinnar að mistök Stalíns hafi numið aðeins 30 hundraðshlutum en ágæti hans 70 hundraðshlutum og þegar allt kemur til alls hafi Stalín verið mikill marxisti. Við skrifuðum "Um sögulega reynslu af alræði öreiganna" á grundvelli þessarar afstöðu. Þetta mat - 30 hundraðshlutar mistök og 70 hundraðshlutar árangur - er nálægt lagi. Stalín gerði nokkrar villur í sambandi við Kína. "Vinstri" hentistefnuna sem Wang Ming stóð fyrir á síðara skeiði Annars Byltingarstríðsins og hægri hentistefnu hans í upphafi Andspyrnustríðsins gegn Japan, má báðar rekja til Stalíns. Á dögum frelsisstríðsins vildi Stalín ekki að við legðum áherslu á byltinguna og hélt því fram að ef borgarastyrjöld blossaði upp myndi kínverska þjóðin hætta á tortímingu sína. Síðan þegar baráttunni hafði lyktað tók hann okkur sumpart af tortryggni. Er við unnum stríðið grunaði Stalín að sigur okkar væri af sömu gerð og sigur Títós og á árunum 1949 og 1950 var raunverulega mikil pressa á okkur. Þrátt fyrir þetta höldum við fast við mat okkar að 30 hundraðshlutar hafi verið mistök en 70 árangur í starfi hans. Þetta er ekki nema réttlátt. Í þjóðfélagsvísindum og marxisma-lenínisma verðum við að halda áfram að nema Stalín af iðjusemi, alls staðar þar sem hann hefur rétt fyrir sér. Við verðum að nema allt sem hefur gildi almennra sanninda og ganga svo frá hnútunum að það sé tengt kínverskum raunveruleika. Það myndi leiða okkur í ógöngur ef sérhverri einstakri setningu, jafnvel þótt Marx hafi skrifað hana, væri fylgt. Kenning okkar er að aðlögun almennra sanninda marxismans-lenínismans við hlutstæðan raunveruleika kínversku byltingarinnar. Einu sinni aðhylltust nokkrir flokksfélagar kreddufestu og það var gagnrýnt af okkur. Kreddustefnan er samt sem áður fyrir hendi núna. Hún er til meðal háskólamenntaðra og hagsýslenda líka.

Við erum fremur vanþróaðir með tilliti til náttúruvísinda og hér ættum við að leggja áherslu á að læra af öðrum löndum. Og þó verðum við að læra á gagnrýninn hátt og ekki blint. Ég held að við verðum að fylgja öðrum í flestum tilfellum í tæknifræðinni, og það er betra fyrir okkur að gera það þar sem okkur skortir tækni og vitum lítið um tæknifræði eins og er. Í þeim tilfellum þar sem við höfum þegar greinargóða þekkingu, megum við þó ekki fylgja öðrum í sérhverju atriði.

Við verðum að hafna og gagnrýna öll úrkynjuð borgaraleg kerfi, hugmyndafræði og lífshættu í öðrum löndum af festu. En þetta ætti engan veginn að hindra okkur frá að læra þróaða tækni og vísindi frá kapítalískum löndum og allt sem er vísindalegt í rekstri fyrirtækja þeirra. Í iðnþróuðum löndum reka þeir fyrirtækin með færri starfsmönnum og á áhrifaríkari hátt og þeir kunna fyrir sér í vísindum. Allt þetta þarf að læra vel, í samræmi við grundvallareglur okkar, til þess að örva megi starf okkar. Þeir sem nema ensku núna leggja ekki lengur hart að sér og skýrslur um rannsóknir eru ekki lengur þýddar á ensku, frönsku eða japönsku til að skipta við önnur lönd. Þetta er einnig viss gerð blindra fordóma. Hvorki algjör höfnun alls sem erlent er, hvort sem vera skal vísindalegt, tæknilegt eða menningarlegt, né algjör eftiröpun alls sem erlent er, eins og talað var um áðan, hefur nokkuð sameiginlegt marxiskri afstöðu og er til einskis gagns fyrir málstað okkar.

Ég álít að Kína hafi tvo veikleika, sem samtímis eru styrkleikar þess. Í fyrsta lagi var Kína áður nýlenda og hálfnýlenda, en ekki heimsvaldaland, og sætti ávallt rangindum annarra. Iðnaður þess og landbúnaður er ekki þróaður og tæknilegt og vísindalegt þróunarstig er lágt. Og að undanskildu víðfeðmu landsvæði, gjöfulum náttúruauðlindum, miklum mannfjölda, langri sögu, "Draumnum um rauða herbergið" í bókmenntum og svo framvegis, er Kína lítilmagni miðað við önnur lönd í mörgu tilliti og hefur því enga ástæðu til hroka. Það er samt sem áður til fólk, sem hefur verið þrælar of lengi, og finnst það vera lítilmagnar í öllu tilliti og rétta ekki úr sér frammi fyrir útlendingum. Þeir eru eins og Chia Kuei í óperunni "Famen hofið" sem neitar að setjast þegar honum er boðið það, og afsakar sig með því að hann sé vanur að standa þegar hann fái áheyrn. Hér þurfum við að herða okkur upp, efla þjóðlega sjálfsvitund og örva þann anda sem birtist í "Hrekjum burt bandarísku heimsvaldastefnuna", sem skapaðist meðan á hreyfingunni gegn bandarískri árás og til stuðnings Kóreu stóð.

Í öðru lagi kom bylting okkar seint. Þrátt fyrir að byltingin 1911 sem varpaði Ching keisaranum úr stóli yrði á undan októberbyltingunni, var enginn kommúnistaflokkur til þá og byltingin mistókst. Sigur alþýðubyltingarinnar varð 1949, meira en 30 árum eftir októberbyltinguna. Af þessum sökum höfum við heldur enga ástæðu til að vera sjálfumglaðir. Sovétríkin eru frábrugðin landi okkar í því í fyrsta lagi að Rússland keisarans var heimsvaldaríki og í öðru lagi, þar var októberbyltingin. Afleiðingin verður sú, að margir í Sovétríkjunum eru sjálfumglaðir og mjög hrokafullir. Þessir tveir veikleikar okkar eru samtímis styrkur. Eins og ég hef sagt annars staðar erum við í fyrsta lagi "fátæk" í öðru lagi "óskrifuð". Með "fatæk" a eg við að við höfum lítinn iðnað og að landbúnaður okkar er vanþróaður. Með "óskrifaður" á ég við að við erum eins og óskrifuð pappírsörk og að menningarleg og vísindalegt þróunarstig okkar er lágt. Með tilliti til möguleikanna er þetta ekki svo slæmt. Hinir fátæku vilja byltingu, meðan það er erfitt fyrir hina ríku að vilja byltingu. Lönd með hátt vísindalegt og tæknilegt þróunarstig eru fyllt af hroka. Við erum eins og óskrifuð pappírsörk sem gott er að skrifa á.

Að vera "fátækur" og "óskrifaður" er þess vegna okkur til góða. Jafnvel er land vort verður einhverntímann sterkt og auðugt, verðum við samt að halda fast við afstöðu byltingarinnar, vera lítillátir og hógværir, læra af öðrum löndum og leyfa okkur aldrei að verða uppfullir af sjálfumgleði. Við verðum ekki aðeins að læra af öðrum löndum meðan á fyrstu 5 ára áætluninni okkar stendur, við verðum að halda áfram að gera slíkt hið sama eftir að mörgum 5 ára áætlunum hefur verið hrint í framkvæmd. Við verðum að vera því viðbúnir að læra jafnvel eftir tíuþúsund ár. Er það eitthvað slæmt?

Ég hef fjallað um tíu málefni allt í allt. Þessi tíu tengsl eru öll móthverfur. Veröldin er samsett úr móthverfum. Án móthverfa myndi heimurinn hætta að vera til. Verkefni okkar er að meðhöndla þessar móthverfur réttilega. Og hvort sem þessar móthverfur verður hægt að leysa algerlega í starfi þannig að við séum ánægð, verðum við að vera við öllu búin; að auki hljótum við að mæta nýjum móthverfum, nýjum vandamálum, þegar við fáumst við lausn þessara móthverfa. En eins og við höfum oft sagt, þó að vegurinn framundan sé torfær er framtíðin björt. Við verðum að gera okkar besta til þess að virkja öll jákvæð öfl, innan flokksins sem utan, heima sem heiman, beint jafnt sem óbeint, og byggja Kína upp sem öflugt sósíalískt land.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
4. tbl. 24.1.1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




# Róttæka félagið

Stofnfundur Róttæka félagsins var haldinn í húsakynnum M.H. þann 18. jan. s.l. Fundarmenn voru aðallega nemendur úr menntaskólunum MR MH og MS. Í byrjun fundarins voru starfsreglur félagsins kynntar og kom þar fram að tiltölulega auðvelt ætti að vera fyrir menn að ganga í félagið, þar sem ekki er krafist félagsgjalda og ekki heimtað að menn hafi myndað sér ákveðnar skoðanir. Síðan hélt Pétur Tyrfingsson langa tölu um róttækt félag er starfrækt var á sínum tíma í MT. Í því félagi sem nú er verið að stofna eru menn úr hinum ýmsu pólitísku samtökum og menn sem standa algerlega utan þeirra. Þriggja manna framkvæmdarnefnd var kosin og á hún að sjá um undirbúning næsta fundar en síðan verður skipt um framkvæmdarnefnd á hverjum fundi.

Tilgangur félagsins er að hrófla við þeirri ládeyðu sem hefur verið í hugum framhaldsskólanema undanfarin ár og vekja þá til umhugsunar um ýmis mál í þjóðfélaginu. Allir framhaldsskólanemar er áhuga hafa á að kynnast hinum ýmsu málum, ræða þau og skiptast á skoðunum eru velkomnir í félagið. Róttæka félagið er því ekki félag einnar skoðunar, heldur hefur það innan sinna vébanda ólík sjónarmið.

Að lokum má geta þess að á stofnfundinum var ákveðið að fá einhverja gamla baráttumenn til að ræða málin og segja frá reynslu sinni.

# Stórgróði af fiskiðnaðinum

Framh. af forsíðu

að þegar loka átti frystihúsinu á Akranesi, krafðist verkafólkið þar þess, að fá að taka við rekstri þess. Sú krafa varð til þess að allt í einu var orðinn grunvöllur fyrir áframhaldandi rekstri frystihússins í óbreyttri mynd.

Árið 1977 var metaflaár í sögu Íslands og var heildaraflinn 1.365.194. lestir. Tæplega 400.000. lestum munar á veiðinni 1977 og 1976 en þá veiddust 985.663 lestir. Munar mestu um aukningu loðnuaflans en árið 1976 var hann 458.731 lestir en árið 1977 var hann nærri helmingi meiri eða 809.000 lestir. Talsverð aukning varð einnig á botnfiskafla frá 1976 til 1977 eða 34.439 lestir.

Það sést mjög vel hversu arðvænlegir loðnuveiðarnar eru, á bræðsluskipinu Norglobal. Í leigugjald fyrir það vílar Ísbjörninn hf. ekki fyrir sér að greiða 5 milljónir og 408 þúsund krónur á sólarhring. Telja forsvarsmenn Ísbjarnarins að framleiðsluverðmæti bræðsluskipsins geti orðið 2000 milljónir íslenskra króna á 80 dögum en leigugjaldið fyrir sama tíma er 430 milljónir króna.

Af öllu þessu er ljóst að grundvöllur er fyrir stórauknum kaupgreiðslum til hinna vinnandi stétta, enda hefur gróði atvinnurekenda stóraukist á undanförnum árum. Þessum gróða hafa þeir stungið undan og tala svo um of hátt kaup verkafólks sem sé að setja þjóðarbúið á hausinn. Verkalýðsfélögin verða að standa fast á réttindum verkafólksins og nú á það rétt á að fá að njóta hinna auknu verðmæta sinna en atvinnurekendur fái ekki að braska með þau í taumlausri gróðafíkn sinni. Nú er krafan sem verkalýðsfélögin verða að setja á oddinn lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku og frá henni má hvergi hvika þrátt fyrir andstöðu atvinnurekenda og úrtölumanna sem reka erindi þeirra innan verkalýðshreyfingarinnar.



Komið hefur á daginn að lokun frystihúsanna var óþurftarráðstöfun fjármálamanna.

# Fréttatilkynning frá SÍNE

Jólafundur SÍNE, Sambands íslenskra námsmanna erlendis var haldinn 2. janúar síðastliðinn. Þar var fjallað um starf SÍNE á vormisseri, og enn fremur samþykkt einróma eftirfarandi stuðningsyfirlýsing: "Jólafundur SÍNE haldinn 2. jan. 1978 lýsir yfir fyllsta stuðningi sínum við baráttu starfsmanna Landssmiðjunnar gegn fyrirhuguðum aðgerðum ríkisvaldsins sem miða að því að hætta rekstri Landssmiðjunnar, og kippa þar með grundvellinum undan lífsafkomu 80-100 launþega, með um 200 manns á framfæri sínu."

Skrifstofa SÍNE er í félagsstofnun Stúdenta við Hringbraut og er opin milli 10 og 12 fyrir hádegi. Hún veitir m.a. upplýsingar um nám erlendis, innritunarfresti o.fl. Þeim sem hyggja á nám erlendis n.k. vetur er bent á að innritunarfrestur við erlenda skóla rennur víða út snemma vors eða enn fyrr, og því ekki seinna vænna að huga að því nú.

# Borgarskipulag

Núna undanfarið hafa menn mikið velt fyrir sér skipulagningu gamla miðbæjarins, nú síðast vegna fyrirhugaðra framkvæmda á Hallærisplaninu og nágrenni. Í því sambandi er vert að athuga aðeins hvernig skipulagningu borgarinnar yfirleitt er háttað.

Eitt af þeim atriðum sem fyrst kemur upp í hugann er það hversu almenningur er áhrifalítill í þessum málum. Öll skipulagning á búsetu og byggingarframkvæmdum fer fram án vitundar eða afskipta almennings. Þannig er unga fólkinu smalað upp í Breiðholt þessi árin, vegna þess að skástu lánin eru veitt út á nýbyggingar og lóðir á viðráðanlegu verði eru nær hvergi veittar nema þar. Svo ef þú lesandi góður ætlar að fara að stofna heimili þá hefur þú um tvo kosti að velja. Annað hvort að fara að byggja eða leigja þér húsnæði sem er bæði dýrt og oft lélegt. Fyrir nú utan það öryggisleysi sem þvi fylgir. Það er enginn skattafrádráttur eða styrkur veittur til að mæta húsaleigukostnaði. Réttindi leigjenda eru nær engin, þeir verða annað hvort að sætta sig við kröfur húseigenda eða að fara út í það að byggja. Eitt af því sem flestir leigjendur verða að sætta sig við er það að gefa upp til skatts mikið lægri húsaleigu en þeir í raun greiða og hjálpa þannig húseigendum að svíkja undan skatti. Fyrir nú utan það að oft reynist erfitt að fá eigendur til að sjá um viðhald á húsnæðinu. Það er einnig greinilegt að menn flytja ekki í Breiðholtið bara af því þá langar svo mikið til þess. Þar er nefnilega félagsleg aðstaða og samgöngur til dæmis fyrir neðan allar hellur. Það er einfaldlega ætlast til þess af stjórnvöldum að menn flytji þangað. Kemur það greinilega fram í þeim mun sem er á lánveitingum til kaupa á eldra húsnæði annars vegar og nýbyggingum hins vegar.

En hverjir standa á bak við þessa stefnu í skipulagsmálum, hverjir hafa hag af henni? Þar má aðallega nefna tvo hópa: Byggingarverktaka og lóðaeigendur. Það er augljóst að byggingarverktakar hafa hag af því að sem mest sé byggt. Við getum tekið gamla miðbæinn sem dæmi um afstöðu lóðaeigenda. Þar hafa fjársterkir aðilar keypt upp stóra hluta af miðbænum til að braska með lóðirnar. Þessir menn hafa hag af því að halda lóðunum í sem hæstu verði. Þeir ná ekki sínum fyrirhugaða hámarksgróða nema með því að selja lóðirnar á okurverði undir verslunar- og skrifstofuhallir.

Við skulum nú aðeins athuga hvernig þetta samræmist hagsmunum okkar "venjulegs fólks". Í fyrsta lagi eru framkvæmdir eins og til dæmis þær sem fyrirhugaðar eru á Hallærisplaninu afskaplega dýrar. Þ.e. að rífa fyrst húsin og byggja svo fimm hæða verslanahöll í staðinn.




Niðurrifsáætlun verslunarauðvaldsins mótmælt af áheyrendapöllum á fundi borgarstjórnar.

Í öðru lagi þá kalla þessar framkvæmdir á meiri framkvæmdir, þar sem gamli miðbærinn er alls ekki skipulagður með tilliti til allrar þeirrar umferðar sem fylgir nútíma viðskiptum. Aftur á móti eru þeir viðskiptakjarnar sem fyrirhugaðir eru (og nokkrir nú þegar risnir) í úthverfunum mun heppilegri með tilliti til þessa. En lóðaeigendurnir í miðbænum græða lítið á framkvæmdum þar, þess vegna halda þeir og skósveinar þeirra sem halda um stjórnvöl borgarinnar fast við þessa hugmynd.

En þetta eru ekki einu rökin sem mæla á móti því að byggt verði á Hallærisplaninu, það er ekki bara það að þessar byggingar eigi ekki erindi þangað. Þarna eru fyrir hús, sem enn eru í fullu gildi, í flestum þeirra er búið og þar er einnig atvinnurekstur. Fyrir nú utan það að Hallærisplanið hefur þjónað því hlutverki að vera skemmtistaður fyrir unglingana sem borgin hefur úthýst. En kostir þess fyrirkomulags eru nú ekki alveg ótvíræðir. Þetta er semsagt lifandi bæjarhluti sem á sinn tilverurétt eins og aðrir. Hann er líka merkilegur að því leyti að hann segir ákveðna sögu um borgina eins og hún var í sínu ungdæmi. Þessi hús gefa bænum svip, sem margir myndu sakna ef hann hyrfi. En í samræmi við stefnu sína, hafa borgaryfirvöld gert sitt besta til að hann grotnaði niður. Það hefur þó ekki enn tekist og það fer að verða æði brýnt að snúa þróuninni við, þannig að átak verði gert til að bjarga þessum borgarhluta frá algerri niðurníðslu. Það er reynsla annara þjóða af þessum málum að í þeim hefur sannast að enginn veit hvað átt hefur fyrr en misst hefur. Það er óþarfi fyrir okkur að gera sömu mistökin.

Þróunin í skipulagsmálum borgarinnar hefur sýnt okkur að ráðamenn hennar eru hlutverki sínu illa vaxnir. Það er því nauðsynlegt að hafa vit fyrir þeim í ýmsum málum. Til þess er nauðsynlegt að menn bindist samtökum um hagsmunamál sín til þess að knýja á um úrbætur. Í Vesturbænum og í Grjótaþorpi eru til íbúasamtök, sem meðal annars berjast gegn því að þessir bæjarhlutar verði gerðir óbyggilegir. En þetta eru ekki einu hverfin þar sem pottur er brotinn. Í nýrri hverfunum er margt sem þarf að breyta og bæta. Það er nauðsynlegt að borgarbúar séu betur vakandi fyrir því sem er að gerast í skipulagsmálum borgarinnar og reyni að hafa áhrif á það.

Reynslan af íbúasamtökunum hefur sýnt okkur að innan þeirra eru tveir ólíkir hagsmunahópar, eigendur og leigjendur. Og þó þessir hópar eigi samleið í einstökum málum eru þeir grundvallarlega hvor í andstöðu við annan. Húseigendur hafa með sér hagsmunasamtök í dag og hafa tryggt aðstöðu sína mjög. En leigjendur hafa engin samtök með sér og er þörfin þó brýn, eins og lítillega var rakið fyrr í greininni. Þetta ófremdarástand má ekki standa öllu lengur.